Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista



43. tölublað. Þriðjudagur 14. nóvember 1978 7. árgangur verð kr. 100.-

## Ríkisstjórnin ætlar að lækka kaupið

Eins og flestum er kunnugt eiga að verða 12-14% kauphækkanir 1. des. nk. skv. samningum. En flokkarnir sem í vor hrópuðu samningana í gildi hafa sagt að hún verði ekki meiri en 3-5%. Áróðursherferðin er hafin. Öll blöð fjalla um hrollvekjuna sem komi ef kaup hækkar eins og um hefur verið samið. Verkalýðsforingjar Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokksins taka dyggilega undir þennan söng.



Kjararánsstjórnin á fundi.

Ríkistjórnin hefur lagt fram tillögur sínar varðandi kauphækkanir 1. des. Þar segir að hækkanir "megi" aðeins verða 3-5%. Einnig er lagt til að skattar allir og niðurgreiðslur verði teknar út úr vísitölunni. Síðast en ekki síst er lagt til að vísitalan verði reiknuð út tvisvar á ári í stað fjórum sinnum.

Þetta þýðir það að samsvarandi lækkun á samningsbundinni kauphækkun, vísitöluhækkun, verður líka í framtíðinni því hér er verið að bollaleggja að "laga til" vísitöluna. Í ofanálag við þetta þá hefur ríkisstjórnin lagt til að allar kauphækkanir næsta ár verði teknar aftur og ekki látnar koma til framkvæmda. Þannig er í fjárlagafrumvarpinu beinlínis gert ráð fyrir því að kauphækkanir ríkisstarfsmanna verði litlar sem engar.

Slík er stefna "alþýðuvinanna" í "vinstri" stjórninni. Þeir ætla að taka samningana úr gildi og lækka kaupið nákvæmlega eins og fyrrverandi stjórn.

Afstaða forystumanna verkalýðsfélaganna.

Í einu er þó munur á þessum ráðstöfunum núverandi ríkisstjórnar og hinnar fyrrverandi. Núverandi stjórn hefur stuðning forystumanna verkalýðshreyfingarinnar. Þeir hreyfa hvorki hönd né fót til varnar gegn þessari kjaraskerðingarherferð. Enda er þeim stjórnað með beinum tilskipunum frá miðstjórnarfundum Alþýðubandalagsins.

Benedikt Davíðsson formaður verkalýðsmálaráðs AB sagði að kauphækkunin "yrði" að koma "öðruvísi" fram en í hærri krónutölu. Snorri Jónsson forseti ASÍ sagði að fleira væri kauphækkun en peningar.

Þessi "öðruvísi kauphækkun" er ekki nánar skilgreind. Vinsælast hefur verið hingað til að lofa skattalækkunum. En nú hefur ríkisstjórnin "lofað" stórkostlegri skattahækkun næsta ár.

Það er ljóst að þessi orðaleikur uppkeyptu verkalýðsforystunnar er einungis til þess gerður að blekkja launþega.

Framhald á baksíðu

## Ódýrar landbúnaðarvörur - hver borgar?



Ein af helstu efnahagsráðstöfunum nýju stjórnarinnar var sú að lækka ýmsar landbúnaðarvörur allmikið. Samtímis hækkuðu flestar aðrar vörur. Að vonum fór þessi verðbreyting fram við lúðraþyt og söng. Stjórnarblöðin töluðu um hagsmuni almennings og alþýðukærleika stjórnarflokkanna. Hins vegar minntust þau ekkert á það, hvernig verðlækkanir þessar væru greiddar og hver raunveruleg orsök þeirra væri. Við nánari íhugun flagnar alþýðukærleikurinn af þessum aðgerðum og eftir stendur nakin og köld þjónusta við auðmagnið.

Bændurnir verða að fá sitt.

Það er alkunna, að landbúnaðarvörur falla ekki af himnum ofan eins og mannakorn, heldur verða til í framleiðslustörfum sveitaalþýðunnar. Og til þess að lifa af framleiðslustörfum sínum verða bændur að fá greitt andvirði afurða sinna. Verðlag á landbúnaðarvörum er hins vegar ekki látið ráðast af lögmálum framboðs og eftirspurnar, heldur fer Verðlagsráð með síðasta orðið í því sambandi. Ríkið greiðir landbúnaðarvörur niður, til þess að landslýður fái þó altént fætt sig í þeirri óðaverðbólgu sem borgarastéttin hefur leitt þjóðina út í. Þessar niðurgreiðslur hafa á seinni árum verið svo miklar, að það borgar sig fyrir flesta bændur að kaupa unna og pakkaða mjólk, frekar en að taka frá eigin framleiðslu til heimaneyslu. Þrátt fyrir að mjólkin hafi verið sótt, fitusprengd, gerilsneydd og pökkuð, er hún samt ódýrari en þegar hún rennur spenvolg í mjaltafötuna. Þó greitt sé fyrir vinnu mjólkurbílstjórans og annarra starfsmanna mjólkurbúanna er söluverð þeirra samt sem áður lægra, en ákvarðað söluverð bóndans pr. lítra. Og það gefur auga leið að einhvers staðar verður að taka pening til að greiða bændum þennan mismun, þar sem mjólkurbúin kaupa þó mjólkina á lægra verði en þau selja hana á. Þessi mismunur er greiddur með skattfé og kallast niðurgreiðslur. Með því vinnst tvennt, gagnvart bóndanum sem framleiðanda, hækka afurðir hans eins og afurðir annarra, gagnvart alþýðu bæjanna eru afurðir bóndans á viðráðanlegu verði.

Við erum búinn að borga fullt verð

Þá vaknar spurningin, hver greiðir landbúnaðarvörurnar niður? Það verð sem almenningur borgar fyrir landbúnaðarvörur út úr búð er aðeins lítill hluti þess sem raunverulega er greitt fyrir þær. Hitt er greitt með skattfé-sem almenningur reiðir af höndum til ríkiskassans. En þótt við borgum þannig raunverulega fullt verð fyrir landbúnaðarvörur, kemur verðhækkun þeirra ekki við buddu hvers og eins. Hún kemur niður á þjónustu ríkisins, með því að auknu skattfé er varið í niður-

Framhald á baksíðu

## INSÍ: Baráttutæki eða skriffinnskubákn

36. þing INSÍ var haldið dagana 20-22 október s.l. Stéttabaráttan hefur nýlega greint frá því hvernig þingið fór fram. Í grein þessari er ætlunin að taka betur fyrir þær ályktanir sem þingið lét frá sér fara og hvaða markmiði þær eiga að þjóna. Undanfarin ár hefur ástandið verið þannig að ályktanirnar hafa komið út rétt fyrir næsta þing. Þannig að þær hafa ekki verið leiðsögn í starfi og stefnu INSÍ. Eitt af því sem breyst hefur til batnaðar er að ályktanirnar hafa styst verulega. Einungis á þann hátt að þær séu stuttar og skorinorðar geta þær verið leiðsögn í baráttu iðnnema. Fáir nenna að lesa ályktanir upp á tugi blaðsíðna sem fjalla um allt og ekkert.

Forysta INSÍ hefur brugðist því hlutverki að vera leiðandi í baráttu iðnema. Hún hefur tekið upp stéttasamvinnustefnu sem miðast að því að auka áhrif ASÍ-forystunnar á stefnu INSÍ. Vonandi fer forysta INSÍ eftir þeim ályktunum sem samþykktar voru á 36 þinginu, því þar segir m.a. "...Ljóst er af þeirri reynslu sem fengist hefur af samstarfssamningi ASÍ og INSÍ, að hann hefur ekki leitt til þess að iðnnemar væru nær því að ná fram höfuð baráttumálum sínum. Slíkt er raunar ekki nema eðlilegt, vegna alrangrar stefnu og starfshátta ASÍ-forystunnar.

36. þing INSÍ telur þar af leiðandi að INSÍ beri að starfa sem sjálfstætt afl". (undirstrikanir höf.)

Ýmsir forystumenn INSÍ tala um að höfuðorsökin fyrir félagsdoða iðnnema sé að ekki sé um að ræða félagsfræðikennslu í skólum. Auðvitað spilar það inn í. En höfuðorsökin fyrir þeim félagsdoða sem ríkir innan iðnnemahreyfingarinnar og víðast hvar annarsstaðar, er það þjóðfélag sem við lifum í auðvaldsþjóðfélagi, sem reynir að brjóta niður alla sjálfstæða hugsun einstaklingsins. Alla sína skólagöngu er nemandinn að nema hugmyndir borgarastéttarinnar um hvað sé rétt og rangt.

Í ályktuninni um félagsmál, kaflanum, Iðnnemasambandið baráttutæki eða skriffinnskubákn segir m.a. um höfuðorsakirnar fyrirstarfsdoða meðal iðnnema, "a) Hreyfingin hefur ekki haft nothæfa baráttustefnu til að byggja tilveru sína og starfa, né mótaða afstöðustefnu í öllum mikilvægum baráttumálum hreyfingarinnar og verkalýðsins.

b) Hreyfingin hefur ekki haft forystu, sem leitt gæti hana

Framhald á síðu 2.

LEIÐARI

# Palestina

Eitt af fórnarlömbunum í hráskinnsleik heimsvaldastefnunnar er palestínska þjóðin. Allt frá lokum síðari heimstyrjaldarinnar hafa palestínumenn verið markvisst ofsóttir með það fyrir augum að hrekja þá frá heimalandi sínu Palestínu. Og hvers vegna? Jú til að landflótta þjóð gyðingar gætu loks eignast frið, og föðurland eftir aldarlangar kynþáttaofsóknir. Það er göfugt markmið að ætla að tryggja einni þjóð öryggi og frið, en í þessu tilfelli var það gert með því að hrekja aðra þjóð á flótta, útí öryggisleysi og örbirgð. Það er kaldhæðnislegt að nú er verið að reyna þjóðarmorð á palestínumönnum í nafni gyðinga, sem hafa gengið í gegnum margar útrýmingarherferðir. En þarf "þjóðarheimili" gyðinga, eins og Ísraelsríki er gjarnan nefnt af ráðamönnum þess og vesturheimskum bandamönnum þeirra, að kosta aðra þjóð þjáningar og stríð? Neí, sagan hefur sýnt okkur að arabar og gyðingar geta búið saman í sátt og samlyndi, eins og raunar í Palestínu fyrir stofnun Ísraelsríkis 1948. Ástæðan fyrir palestínuvandamálinu er því ekki hatur milli araba og gyðinga fyrst og fremst. Hún er sú að Ísraelsríki er ekki "þjóðarheimili gyðinga" heldur vestrænt vígahreiður. Vegna gróða- og valdasjónarmiða vestrænna hervelda hefur gyðingum verið att gegn palestínumönnum til þess að tryggja hagsmuni heimsvaldasinnanna en ekki sína eigin.

Þetta hefur verið að renna upp fyrir mörgum undanfarna áratugi. Fleiri og fleiri aðilar bæði utan og innan Ísraels hafa tekið upp stuðning við baráttu palestínumanna fyrir því að fá að snúa heim. Eitt skýrasta dæmið um vaxandi samúð og skilning á baráttu palestínumanna er sú ákvörðun Sameinuðu þjóðanna frá síðasta ári, að 29 nóvember skuli vera alþjóðlegur samstöðudagur með palestínsku þjóðinni. Þetta ásamt vaxandi andstöðu innan Ísraels hefur orðið til að veikja mjög stöðu þeirra sem vilja viðhalda Ísraelsríki dagsins í dag með þeirri kynþáttakúgun sem þar ríkir.

Vegna þeirrar alþjóðlegu samstöðu sem palestínuarabar njóta í dag hafa Bandaríkin og Ísrael sett á svið friðarviðræður við Egypta. Svokallað Camp David samkomulag gerir alls ekki ráð fyrir að fundin verði lausn á málum palestínuaraba. Þetta samkomulag er sviðsett til að endurheimta eitthvað af þeirri samúð sem þjóðir heimsins höfðu áður með Ísrael. Camp David samkomulagið gerir ráð fyrir því að palestínuarabar haldi enn áfram að lifa lífi sínu í flóttamannabúðum utan heimalands síns. Það hefur því ekki enn verið fundin lausn á vandamálum þessarar þjóðar.

Lausnir stórveldanna á vandamálum smáþjóðar hafa raunar aldrei leitt af sér annað en hörmungar fyrir alþýðu þriðja heimsins. Þess skulum við Íslendingar minnast þegar við svörum kalli Sameinuðu þjóðanna 29. nóvember um stuðning við baráttu PLO fyrir fullu og óskoruðu sjálfstæði Palestínu.



# INSÍ: Baráttutæki eða skriffinnskubákn

Framhald af forsíðu



áfram og þróað stefnu hennar, virkjað félagana til starfa. Á hinn bóginn hefur núverandi forysta leiðst út í að treysta á forræði annarra, fyrst og fremst ASÍ-báknsins og forystu svokallaðra verkalýðsflokka (einkum Alþýðubandalagsins) til að annast málefni iðnnemahreyfingarinnar. Þessi stefna þýðir í reynd pólitíska og faglega afvopnun iðnnemahreyfingarinnar og samtaka þeirra sem sjálfstæðs afls" (undirstrikun höf.) Þessi klausa sýnir ljóslega hver er vilji 36. þings INSÍ og vonandi ber stjórninni gæfa til að framfylgja honum

Í þjóðmálaályktun þingsins segir m.a. "..Meðal verkefna sem iðnnemahreyfingin og verkafólk stendur frammi fyrir eru eftirfarandi mikilvægust. .

1. Standa vörð um samnings og verkfallsréttinn og berjast um leið gegn öllum afskiptum ríkisvaldsins af gerðum samningum.
2. Berjast fyrir áframhaldandi afnámi óbeinna skatta af neyslu almennings s.s. söluskatti og vörugjaldi. Sömuleiðis afnámi beinna skatta af þurftarlaunum, en um leið að hátekjufólk, fyrirtæki og eigendur þeirra beri skattana.
3. Berjast fyrir auknu framboði af leiguhúsnæði og gegn húsaleiguokri, jafnframt því sem alþýðufólki verði gert kleift að eignast húsnæði, með auknum og hagstæðari lánum. Þingið lýsir yfir stuðningi við nýstofnuð leigjendasamtök og telur að ekki sé seinna vænna að leigendur taki upp skipulagða fjöldabaráttu gegn því húsaleiguokri sem viðgengst.
4. Berjast þarf gegn atvinnuleysi og uppsögnum og fyrir fullri atvinnu sem lágmarksréttindum" Þarna er á stuttan og greinargóðan hátt lýst flestum meginbaráttumálum verkalýðshreyfingarinnar í faglegu baráttunni.

Í kaflanum um utanríkis og sjálfstæðismál er bent á að meginbaráttan sé gegn hernum og NATO. Og að ekki sé hægt að treysta á þing né ríkistjórn í þeim efnum. Verja ber efnahagslegt og pólitískt sjálfræði landsins. Berjast gegn erlendri stóriðju. Um alþjóðaástandið segir að ástandið einkennist af sívaxandi stríðsundirbúningi risaveldanna Bandaríkjanna og Sovétríkjanna og af þeim stafi veruleg stríðshætta.

Þingið lýsir yfir fyllsta stuðningi við baráttu þjóðfrelsishreyfinga gegn heimsvaldastefnunni, t.d. í Palestínu, Eritreu, Namíbíu og víðar.

Í ályktun um kjaramál kemur fram að þingið fagnar því að drög að nýrri vinnumálalöggjöf náði ekki fram að ganga. Nauðsyn sé að vera stöðugt á verði gagnvart tillögum sem miðast að því að skerða á nokkurn hátt áunnin réttindi verkafólks.

Varðandi samningsréttinn þá kemur það fram að sú ríkisstjórn sem nú hefur tekið við völdum hefur svikið þau loforð sín að fullur kaupmáttur haldist með setningu bráðabirgðalaga um svokallað "launaþak". Síðan segir m.a. orðrétt"..Ríkisstjórnin ætlar sér að fá núgildandi kjarasamninga framlengda um eitt ár a.m.k. með aðstoð uppkeyptrar verkalýðsforystu. Allt bendir til þess að þessi skerðingar áform nái fram að ganga með samþykkt verkalýðsforystunnar" (undirstrikun höfundar). Margt fleira mjög gott er að finna í ályktun þessari sem of langt mál yrði að tíunda.

Í ályktuninni um iðnfræðslu er farið nokkrum orðum um kosti og galla meistarakerfisins og hvort verkkennsla sé betri leið. Þingið komst að þeirri niðurstöðu að verkkennsla í skólum væri betri leið og aðalkosturinn væri sá að þar ríktu önnur sjónarmið gagnvart framleiðslu nemenda heldur en í meistarakerfinu. Það er kunnara en frá þurfi að segja að atvinnurekendur leitast ekki við að kenna nemendum neitt á samningstímabilinu, heldur eru þeir einungis notaður sem ódýrt vinnuafl. En í skólunum er leitast við að nemandinn fái alhliða fræðslu um það fag sem hann er að læra. En megin ókosturinn við nám í verknámsskóla er sá að nemandinn fær ekki greitt kaup í skóla. Þess vegna er það krafa að meistarakerfisnemendur og verknámsskólanemendur fái sömu laun fyrir sama nám. Það er ljóst að ef þessi krafa fæst ekki samþykkt þá verður það til þess að margir þeir sem hyggja á iðnnám og koma úr röðum verkalýðsins falla frá því, vegna þess að þeir treysta sér ekki til að vera kauplausir níu mánuði á ári.

## ÚR BARÁTTUNNI

### Fréttabréf verkalýðsfélaganna í Vestmannaeyjum.

Stéttabaráttunni hefur borist Fréttabréf verkalýðsfélaganna í Vestmannaeyjum.

Undanfarin þrjú ár hefur Verkalýðsfélag Vestmannaeyja gefið út fréttabréf. Nú hefur sú breyting orðið á að Sjómannafélagið Jötunn og Verkakvennafélagið Snót hafa tekið þátt í útgáfunni. Þannig er fréttabréfið nú málgagn allra verkalýðsfélaganna í Eyjum.

Hugmyndin er að gefa fréttabréfið út á þriggja mánaða fresti og er það sent ókeypis til allra félaga í þessum þrem verkalýðsfélögum.

Það þarf varla að benda á hve þetta er lofsvert framtak. Verkalýðsfélögunum er nauðsyn á málgagni ekki síst þegar fyrir dyrum standa harkalegar árásir ríkisins og atvinnurekenda á kjör verkafólks.



## ...í Stuttu máli

### Íranskeisari í stríði gegn þjóð sinni.

Íranskeisari heldur áfram stríðinu gegn þjóð sinni. Hann hefur nýlega skipað nýja ríkisstjórn herforingja. Oddviti þessarar stjórnar er hershöfðingi sem hlaut "menntun" sína í herskóla í Bandaríkjunum. Ætti það ekki að koma á óvart þar sem bandarískir auðhringar drottna yfir allri olíuframleiðslu Írans.

Samkvæmt tilskipunum þessarar stjórnar eru allir skólar lokaðir, miðborg Teheran er vöktuð af herliði og bannað er að safnast saman í stærri hóp en tveggja einstaklinga. Ef einhver brýtur þessar reglur og lætur sér ekki segjast við aðvörunarskot er hann skotinn.

### Andstaðan gegn keisaranum mikil.

Í byrjun nóvember urðu harðar mótmælaaðgerðir gegn keisarastjórninni. Hermönnum var sigað á mannfjöldann.

Í þessum aðgerðum var kveikt í bönkum, hótelum, bílum og sendiráðum, m.a. breska sendiráðinu og tilraun var gerð til íkveikju í bandaríska sendiráðinu.

Ljóst er því að andstaðan gegn keisaranum er mjög mikil og víðtæk.

Mannfjöldinn í Teheran hafði á sínu valdi mikilvæga hluta borgarinnar þegar hersveitirnar voru sendar á vettvang.

Prentfrelsi er ekkert í landinu. Meira að segja var tiltölulega hófsamt blað, sem hefur gagnrýnt keisarann mildilega, bannað og gert upptækt af hersveitum.

Síðustu daga hefur baráttan harðnað og að minnsta kosti 40 stúdentar voru drepnir í götubardögum nýlega.


**HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L**

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11 N:220
222 46 LUND

# Um fræðslu í verkalýðshreyfingunni

**Dufþakur**

Þessa stundina ríkir óvenju mikil deyfð í verkalýðshreyfingunni, jafnvel meiri en verið hefur og var þó ekki á bætandi. Ástæðan er auðvitað fyrst og fremst sú, að þar ráða ríkjum pólitískir hagsmunahópar Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokks og þar sem nú er svonefnd vinstri stjórn við völd á verkalýðurinn að sætta sig við orðinn hlut, vera ánægður og gera engar kröfur. Í besta falli á verkalýðshreyfingin að bjarga ríkisstjórninni frá falli. Það sannast nú betur en áður, að afstaða einstakra verkalýðsfélaga ræðst af því, hvaða flokksstimpill þeir hafa, sem verma ráðherrastólana hverju sinni.

Sjálfstæðisflokkurinn hefur nú dregið þá lærdóma af kosningaósigrinum að best sé að bæta stöðu sína innan verkalýðshreyfingarinnar. Á ráðstefnu, sem hann hélt um daginn, var samþykkt að skora á alþingi að semja lög um breytt kosningafyrirkomulag í verkalýðshreyfingunni, þannig að í stað listakosninga yrði nú komið á hlutfallskosningum, svo að minnihlutinn fengi fulltrúa í stjórnum verkalýðsfélaganna. Það skal tekið undir það hér, að hlutfallskosningar eru réttlátara og lýðræðislegra fyrirkomulag, en hins vegar væri það meira en lítið óæskilegt, að ríkisvaldið ætti að fara hlutast til um innri málefni verkalýðshreyfingarinnar. Þetta er auðvitað mál verkalýðsfélaganna sjálfra.

Meginástæða þess, að starfsemi verkalýðshreyfingarinnar er meira og minna lömuð, er ítök einstakra hagsmunahópa, sem beint og óbeint ganga erinda atvinnurekenda innan stéttarfélaganna. Og til þess að viðhalda þessari aðstöðu sinni er heppilegast að berja niður alla baráttu og samstöðu meðal félagsmanna, er byggir á stéttarlegum grundvelli.

Ein aðalforsenda þess, að unnt sé að virkja hinn almenna félagsmann, er að koma á fót skipulagðri fræðslu og umræðu meðal allra meðlima verkalýðshreyfingarinnar. Að vísu er starfandi Félagsmálaskóli alþýðu, en aðeins mjög takmarkaður fjöldi kemst þar að og þá fyrst og fremst trúnaðarmenn.

Á almennum félagsfundi, sem Dagsbrún hélt í síðasta mánuði, var samþykkt tillaga um að skora á alþingi að samþykkja auknar fjárveitingar til fræðslustarfs í verkalýðshreyfingunni. Þetta er auðvitað gott og blessað, en það er hægt að gera ýmislegt meira en að fara þessa bónleið til ríkisvaldsins. Í lögum Dagsbrúnar er að finna sérstakan kafla sem ber yfirskriftina Fræðslunefnd. Hann hljóðar svona:

"Félagsstjórnin skipar þriggja manna fræðslunefnd á næsta fundi eftir aðalfund, og er hún fastanefnd allt árið. Nefndin skal annast um að haldnir séu fyrirlestrar á vegum félagsins og á félagsfundum. Hún skal og hafa á hendi aðra fræðslu- og útgáfustarfsemi félagsins, eftir nánari fyrirmælum stjórnarinnar."

Ekki verður betur séð en þarna sé gullið tækifæri til að bæta úr fræðsluskortinum innan Dagsbrúnar og þar sem félagið hefur nú ágætan samkomusal til afnota -Lindarbæ- væri því ekkert því til fyrirstöðu að skipuleggja fræðslustarfsemi á vegum félagsins. En því miður er því ekki að heilsa. Undanfarin ár hefur þessi fræðslunefnd ekki verið neitt annað en nafnið tómt, hafi þá einu sinni verið hirt um að skipa menn í hana.

Mergurinn málsins er sá, að það skorti ekki fyrst og fremst peninga af hendi ríkisvaldsins til að uppfræða félaga verkalýðshreyfingarinnar. Það sem helst skortir er frumkvæði af hálfu stjórna verkalýðsfélaganna. Það læðist að manni sá óljósi grunur, að kannski vilji hagsmunaklíkurnar í verkalýðshreyfingunni einmitt hafa þetta svona...

# *Lærdómar af 5. bindi Maó formanns*

# Kreddufesta og stéttgreiningin

Fyrir 130 árum skrifuðu Marx og Engels þessi spámannlegu orð Kommúnistaávarpsins "Af öllum þeim stéttum, er standa andspænis borgarastéttinni, er öreigalýðurinn einn byltingarsinnuð stétt í raun og sannleika. Aðrar stéttir hrörna og líða undir lok í rás iðjuþróunarinnar, en öreigalýðurinn er holdgetið afkvæmi hennar". (Úrvalsrit M&E, l. bindi bls. 35)

Æ síðan hafa hentistefnumenn af öllum gerðum reynt að afneita og afskræma þessa kenningu frumkvöðla marxismans. En framvinda mannkynssögunnar hefur staðfest réttmæti hennar og hún er hornsteinn í öllum sigrum verkalýðsbyltinga 20. aldarinnar. Í baráttu sinni gegn endurskoðunarstefnu og hentistefnu lagði Maó Tse-tung áherslu á sannleiksgildi þessarar kenningar. Hann segir m.a.: "Fyrir frelsun voru aðeins 4 milljónir iðnverkamanna í Kína og nú eru þeir 12 milljónir. Þótt verkalýðsstéttin sé fámenn, er það hún og einungis hún sem á framtíðina fyrir sér. Hinar stéttirnar eru allar stéttir í breytingu, þær munu allar þurfa að færast í átt til verkalýðsstéttarinnar." (Vol. 5, bls. 504)

Þegar árið 1926 lýsti Maó því yfir að iðnverkalýðurinn væri forystuafl kínversku byltingarinnar. Þessi afstaða hefur æ síðan verið leiðarstjarna sósíalísku byltingarinnar í Kína.

Kreddusinnar hafna þessari kenningu marxismans. Þeir líta ekki á iðnverkalýðinn sem sérstaka stétt, heldur sem framsæknasta hluta verkalýðsstéttarinnar. Þessi kenning er röng. Í fyrsta lagi skoðar hún verkalýðsstéttina ekki sem heild og í öðru lagi hafnar hún þeirri staðreynd, að aðrar stéttir séu staddar í tilfærslu í átt til iðnverkalýðsins. Kreddusinnar gera líflausa tvenndarhyggju úr díalektíkinni. Í stað þess að viðurkenna margbreytileika þjóðfélagsandstæðnanna og draga fram hin tvö andstæðu skaut stéttabaráttunnar, án þess að gleyma tilvist hinna fjölmörgu blæbrigða, breytingastiga og millistiga, sem teygja sig frá annarri andstæðunni til hinnar, sjá þeir aðeins öfgana og reyna að þröngva margbreytileika þjóðfélagsins inn í örfáa og skýrt afmarkaða bása. Þannig reyna þeir alltaf að leita skarpra og algerra skila milli fyrirbæranna og gera því marxismann lífvana og stirðnaðan trúarbókstaf.

Þegar þeir skoða andstæðurnar milli iðnverkalýðsins og annarra hópa alþýðunnar, sjá þeir fyrir sér ósættanlegar móthverfur og óbreytanlega afstöðu.

Þeir skilja ekki að afnám stéttanna felst í umbreytingu allra annarra stétta í iðnverkalýð, að sú tilfærsla stéttanna sem fer nú fram er fyrirboði þess að allar manneskjur öðlist sömu stéttarafstöðu og að stéttarmunur hverfi þannig.

Kreddusinnar ana á undan tímanum. Þeir verða þess áskynja, að lífskjör og starfshættir í verslun eru að breytast fyrir tilstilli þróunar framleiðslunnar. Þá flýta þeir sér að skipa verslunarfólki á bekk með iðnverkafólki en gæta þess ekki að verslunarstarfsmenn hafa hvorki öðlast langvarandi reynslu af aga og skipulagi stórframleiðslunnar eins og verkafólk, né búa við sambærilega samþjöppun í störfum sínum. Þeir gæta þess heldur ekki að breytingar þær sem eru að verða á afstöðu verslunarstarfsmanna hafa enn aðeins náð til lítils hluta þeirra á Íslandi.

Og samtímis sem þeir telja það höfuðsynd að vera ósammála þeim um stéttarstöðu verslunarstarfsmanna gleyma þeir efnahagslegu og pólitísku mikilvægi alþýðunnar til sveita. Þannig vanmeta þeir mikilvægasta bandamann öreigalýðsins og afbaka kenningu lenínismans um bandalag verkalýðs og bænda sem grundvöll sósíalískra byltinga um víða veröld.

Eins og kreddusinnum er gjarnt verður stéttgreiningin ekki að lifandi leiðsögn í þjóðfélagsbaráttunni heldur stirðnuðu og lífvana trúarkerfi, ef hún er skoðuð yfirborðslega og einhliða. Stéttgreining íslensks þjóðfélags er mikilvægur leiðarsteinn í starfi kommúnistanna. Hún verður að ganga út frá almennum sannindum marxismans - lenínismans - kenningum Maó Tse-tungs og glæða þau lífi í hinum sérstæðu þjóðlegu aðstæðum sem ríkja á Íslandi í dag. Hornsteinn hennar er að líta á iðnverkalýðinn sem forystuafl sósíalísku byltingarinnar á Íslandi.

*6. grein*






*...í stuttu máli*

Innrás Uganda í Tansaníu.

Uganda hertók nýlega um 1800 kílómetra landsvæði í Tansaníu, og hafa lýst yfir að þetta sé hluti af Uganda.

Landamæri ýmissa afríkuríkja eru óljós enda eru þau mörg hver ákveðin og teiknuð upp af fyrrverandi breskum nýlenduherrum. Var þá ekkert skeytt um íbúana heldur eingöngu hvað hentaði best breska nýlenduveldinu.

Það er slíkt landsvæði sem einræðisherra Uganda, Amin, hefur lýst sem hluta af Uganda. Við fordæmum innrás Uganda því að slík vandamál á að leysa með samningaviðræðum en ekki innrás.

Stjórn Tansaníu svaraði með því að segja Uganda stríð á hendur og virðist það hafa lækkað rosta einræðisherrans talsvert.

Risaveldin, Bandaríkin og Sovétríkin, hafa gripið þetta tækifæri fegins hendi og hafið afskipti af deilunni.

Bandaríkin buðust til að aðstoða við friðarviðræður sem var hafnað.

Sovétríkin hafa hins vegar sent Idi Amin einræðisherra "ánægjulegt erindi" að sögn Amins. Enda hafa Sovétríkin sent Uganda hergögn.

Tilgangur risaveldanna er að ná ítökum í þessum löndum en þessi ríki hafa einmitt farið eigin leiðir á kostnað ítaka risaveldanna.

"Vináttusáttmáli" rússa og víetnama.

Nýlega undirrituðu leiðtogar rússa og víetnama vináttusáttmála. Samkvæmt honum lofa ríkisstjórnirnar að "aðstoða hver aðra ef á þær er ráðist."

Samtímis var undirritaður samningur um efnahagslega samvinnu en engar upplýsingar hafa verið gefnar um innihald þess samnings.

Samkvæmt TASS fréttastofunni er undirritunin árangur tveggja daga umræðna og undangenginna samskipta. Fréttastofan bætti við að "samningsaðilarnir væru sammála á öllum punktum."

Útvarpið í Kampuchea sagði frá þessu og að víetnamskir leiðtogar hefðu farið til Rússlands til ráðagerða um enn meiri hernaðaraðgerðir á hendur Kampuchea.

Ferðalag víetnömsku leiðtoganna ber upp á sama tíma og mikil flóð eru og hungursneyð í Víetnam. Það getur ekki skoðast öðruvísi en sem merki um það hve Víetnam er þrælbundið Sovétríkjunum, að því er útvarpið í Kampuchea sagði.

Ennfremur sagði útvarpið í Kampuchea að víetnömsku leiðtogarnir hefðu farið til Sovétríkjanna til að útskýra hernaðarlegt skipbrot þeirra í Kampuchea og til að fá nýjar áætlanir og fyrirskipanir frá sovéskum yfirvöldum



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
43. tbl. Þriðjudagur 14. nóvember 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# Ríkisstjórnin ætlar að lækka kaupið

Framhald af forsíðu

Yfirlýsing Svavars Gestssonar.

Svavar Gestsson viðskiptaráðherra sagði á fundi með hverfahópi AB í smáíbúðahverfi að hann samþykkti aldrei kjaraskerðingu 1. des. Þetta er einstaklega athyglisverð yfirlýsing og verður gaman að sjá þegar háttvirtur ráðherra étur hana ofan í sig. Það er nefnilega nú þegar búið að ákveða þessa kjaraskerðingu sem ráðherrann er á móti.

Er kauplækkunin nauðsynleg?

Núverandi kjararánsstjórn leggur mikla áherslu á að kjaraskerðingin sé "nauðsynleg" eins og raunar fyrrverandi stjórn gerði líka. Það sé hvorki meira né minna en hætta á að allt efnahagslífið fari í bál og brand.

Auðvitað er kjaraskerðingin ekki nauðsynleg. Ekki nema til þess að vernda hámarksgróða atvinnurekenda.

Undir eins og hámarksgróðinn hættir að aukast að skapi atvinnurekendanna þá er gripið til kjaraskerðingar.

Ef hagur fyrirtækjanna er raunverulega eins bágur og atvinnurekendur vilja vera láta þá ættu þeir að vilja losna við fyrirtækið. Láta það í hendur ríkisins, sem þó breytti litlu, eða í hendur starfsfólksins í fyrirtækinu. En það vilja þeir ekki vegna þess að "eign" þeirra á atvinnuteækjunum skapar þeim gróða og völd sem þeir vilja ekki fyrir nokkurn mun láta af hendi.

Gagnráðstafanir launþega.

Ljóst er að launþegar verða að grípa til harðra aðgerða gegn kjaraskerðingum ríkisstjórnarinnar. Það verður ekki gert með tilstyrk verkalýðsforingjanna í miðstjórnum stjórnmálaflokkanna. Baráttan verður ekki síður að beinast gegn þeim.



Snorri Jónsson vill að kaup hækki "öðruvísi en með kauphækkun".

# Minning
# Þorlákur Halldórsson

Sú sorgarfregn barst okkur laugardaginn 4. nóvember að félagi okkar, Þorlákur Bjarni Halldórsson, væri látinn af völdum vinnuslyss daginn áður.

Þorlákur heitinn var aðeins tuttugu og tveggja ára en hafði þrátt fyrir lágan aldur lagt fram drjúgan skerf til verkalýðsbaráttunnar á Íslandi og til kommúnískrar baráttu.

Þorlákur var í fremstu víglínu fyrir verkalýðsmálastarf Kommúnistaflokksins og helgaði líf sitt baráttu verkalýðsins og kommúnismanum.

Þorlákur hafði til að bera þrjá dýrmæta eiginleika. Hann var duglegur i hverju sem hann tók sér fyrir hendur, heiðarlegur og traustur.

Ritstjórn Stéttabaráttunnar kveður félaga okkar með söknuði og sendir aðstandendum hans og ástvinum hugheilar samúðarkveðjur.

# Leshringur

Nú er að hefjast leshringur á vegum Kommúnistaflokksins. Þar eru lesin og rædd nokkur grundvallarrit marxismans-lenínismans. Fundir eru haldnir vikulega. Leshringnum er ætlað að veita þátttakendum nokkra vitneskju um kenningar kommúnista og baráttu þeirra. Þeir sem hafa áhuga á að taka þátt í námsstarfi Kommúnistaflokksins eða fá nánari upplýsingar um það, geta haft samband við Rauðu Stjörnuna, Lindargötu 15, s. 2 78 10 milli kl. 16-18 virka daga.



# Ódýrar landbúnaðarvörur - hver borgar?

Framhald af forsíðu

greiðslur, í stað menntunar, heilsugæslu eða samgangna osfrv. Því meira sem fer í niðurgreiðslur því minna verður eftir til annarrar þjónustu, sem greidd er af skattfé almennings. Þessi ráðstöfun virðist í fljótu bragði vera hrein handvömm af hálfu valdhafana, en ef hún er skoðuð nánar kemur raunverulegur tilgangur hennar berlega í ljós. Niðurgreiðslur eru ekki gerðar í þágu almennings- hann þarf hvort eð er að borga landbúnaðarvörur að fullu í skiptum fyrir lélegri þjónustu

Allir þurfa að éta.

Kaupmáttur launa á Íslandi er mjög lítill. En eitt verða þó allir að verða sér út umnefnilega fæðu. Og matvörur eru stór hluti af kaupþörfum almennings. Og þegar kaupmáttur er lítill, er hætt við að meiri hluti launa fari í fæðukaup, húsnæði og föt. Ef svo væri hefði almenningur ekkert afgangs til að kaupa aðrar vörur alla vega ekki dýrar vörur. Bændur, auðvaldið í matvælaiðnaði, byggingariðnaði og fataiðnaði, auk húsaleigubraskara myndu fá nær öll laun verkafólks og ekkert yrði afgangs handa auðvaldinu í öðrum greinum iðnaðarins. Fólk kemur sér einu sinni upp húsnæði, kaupir sér föt endrum og eins, en það þarf að éta daglega og oft á dag. Þess vegna grípur allsherjarkapítalistinn-ríkið til þess ráðs, að greiða matvörur niður Með þessu vinnur auðvaldið þrennt. Í fyrsta lagi þarf ekki að hækka launin almennt því fólki er gert kleyft að lifa áf lágum launum með því að hafa landbúnaðarvörur ódýrar. Í öðru lagi þarf hver atvinnurekandi ekki að greiða hærri laun, heldur greiðir ríkið brúsann og afleiðingarnar lenda á almenningi, sem fær verri þjónustu. Í þriðja lagi er þeim hluta launanna, sem annars hefðu farið í matvörur, varið til kaupa á öðrum vörum Og það er dæmigert fyrir efnahagsráðstafanir nýju stjórnarinnar, að nær allar aðrar vörur en landbúnaðarvörur voru hækkaðar um leið og landbúnaðarvörur lækkuðu.

Að selja sál sína

En vandinn er þó ekki allur leystur, því kaupgeta íslenskrar alþýðu er mjög lág. Þess vegna grípa kaupmenn til þess ráðs að víkka markaðinn út fyrir eðlileg endamörk hans. Það er ekki nóg með að vörurnar séu seldar fyrir andvirði þeirra launa sem verkafólk hefur þegar fengið greidd, heldur eru nær allar dýrari vörur seldar fyrir andvirði þeirra launa, sem verkafólk á eftir að fá fyrir vinnu sína í framtíðinni. Þær eru m.ö.o. seldar á víxlum. Víxill er raunverulega ekkert annað en trygging í ógreiddum launum, og baktryggingin er venjulega sú að kaupmaðurinn getur hirt vöruna aftur án endurgreiðslu hversu mikið sem greitt hefur verið af afborgunum. Í raun réttri er hér ekki um ne[illegible] annað að ræða, en illyrm[illegible]slega verslun með líf fólks. Við útborgun launa, á verkafólk venjulega aðeins lítinn hluta þeirra, hitt er umsamin skuld til alls konar braskara og lánastofnana. Hverjum og einum ætti að vera ljóst afleiðingar þessa fyrirkomulags, ef til atvinnuleysis kemur.

Hvar er þá alþýðukærleikurinn

Einföld athugun á raunverulegum bakgrunni og tilgangi niðurgreiðslna nægir til að sýna berlega fram á alþýðukærleik stjórnarflokkanna. Þeir þjóna engum öðrum en auðvaldinu og það því frekar sem þeir æpa um andstöðu gegn atvinnurekendum, kerfinu eða auðvaldinu. Efnahagsráðstafanir þeirra eru ekki gerðar í þágu alþýðunnar, heldur í þágu atvinnurekenda. Nýja stjórnin er því ekki stjórn alþýðunnar, heldur stjórn atvinnurekenda. Og þjónkun hennar birtist að vonum ekki bara í efnahagsmálum, heldur og í sviknum kosningaloforðum um endurgreiðslu vísitöluuppbóta og í stuðningi við veru bandaríska hersins á Íslandi og veru landsins í NATO. Við verðum að venja okkur við að skyggnast bak við tjöldin og spyrja þeirrar spurningar, í þágu hvers framkvæmdirnar séu gerðar. Ef við ættum að dæma stjórnmálaflokkana eftir umsögnum þeirra um sjálfa sig, kæmumst við bara að þeirri niðurstöðu, að Ísland hefði fjóra sauðtrygga framverði frelsis, réttlætisog alþýðuhagsmuna á Alþingi. Verkin tala betur en kosningarloforðin, látum framkvæmd[illegible]r nýju stjórnarinnar vera dómsorð um stéttarlegt eðli hennar.




Þú borgar tvisvar fyrir mjólkurlítrann.